# Lifs-saga
# Jóns Jónssonar

fordum Sýslumanns í Rángár-valla-sýslu,

upplesin vid

## hanns útfør ad Odda,

dag 4. Septembris 1789.







Ad forlage Eckiunnar
prentad í Kaupmannahøfn, 1794.
hiá J. R. Thiele.



Ad segia frá ætt og uppruna sál. Syslumannsins Jóns Jónssonar vilde útheimta oflángann tíma, ef aller þeir stórgøfugir og meireháttar menn ættu ad uppteliast, sem hann átte kyn sitt til ad rekia; samt, þar þad er sidvanalegt vid útfør framlidinna merkismanna, en landsvane er lands æra, má med færstu ordum minnast á nockra hanns lángfedga, sem i háum og vigtugum embættum hafa fødurlandinu þenad.

Hanns fader var sá i sinne tid og sidan fyrir gudrækne, forstand og høfdingsskap nafnfrægi Prófastr i Mýrasýslu, og Prestur ad Stafhollte, Sira Jón, sonur Sysslumannsins i øllu

 Þver-



Hverárþíngi Jóns, sonar Sigurdar Log-
manns, Jónsonar Sýsslumanns, Sig-
urdarsonar; biuggu þeir lángfedgar i
Einarsnesi, og er sá gofuge ættleggur,
sem af þeim er kominn, almennelega
kalladur Einarsnesætt. Ektaqvinna
Sýsslumannsins Jóns Sigurdarsonar
Elldra var Ragneidur, dótter Hannesar
Biornssonar i Snóksdal og Gudrúnar
Olafsdóttur; var sú Gudrún komin af
Biskupi Gottskalk Nicolaussyne á Hó-
lum, enn Hannes var sonarson Hird-
stiórans og Riddara Hannesar Eggerts-
sonar, enn dóttursson þess nafnfræga
og megtuga hofdingia Dada Bónda i
Snóksdal. Ektahústrú Sigurdar Log-
manns Jónssonar var Christin, dótter
Prófastsins Sira Jóns Gudmundssonar
i Hýtardal, og Gudridar dóttur Gisla
Logmanns, Þórdarsonar ogsvo Logmanns,
Gudmundssonar. Ektahústúr Gisla Log-
manns Þórdarsonar var Ingebiorg,
dótter þess nafnfræga hofdíngia Arna
á Hlid-




á Hlidarenda Gislasonar, og Gudrúnar Sæmundardóttur. Móder Gudrúnar var Gudrídur, dóttir Vigfúsar Hirdstióra og Løgmanns á Hlidarenda, Erlendssonar Løgmanns, af Kolbeinsstada ætt; enn ektahústrú Vigfúsar Hirdstióra var Gudrún, dótter Páls Jónssonar á Skarde, og Solveigar Biørnsdóttur i Vatnsfirdi, komin af Birne Jórsalafara og Riddara. Ektaqvinna Jóns Sigurdssonar Yngra, Syslumanns, var Ragneidur, dótter Prófastsins Sira Torfa í Gaulveriabæ, Jónssonar, Gissurssonar Sýslumanns, Þorláksonar, bródur Gissurar Biskups Einarsonar, hins fyrsta Lútherska Biskups i Skálhollte. Ektaqvinna Gissurar Sýslumanns var Ragneidur Pálsdótter frá Stadarhóle, Jónssonar á Svalbarde, Magnússonar, Þorkiellssonar Prests i Laufáse, Gudbiartssonar. Ektahústrú Magnúsar á Svalbarde var Christin, dótter Ejolfs Riddara, sonar Arnfinns



Riddara, Þorsteinssonar Hirdstióra og Logmanns, Ejólfssonar. Ektahúsfrú Þorsteins Hirdstióra var Arnþrúdur, dótter Magnúsar á Svalbarde, hvors forfedur rekia má til fyrstu landnáms-manna. Ektahúsfrú Ejolfs Riddara var Snælaug Gudnadótter, Oddssonar Logmanns Lepps, Þórdarsonar. Ektahú-sfrú Jóns Magnússonar á Svalbarde var Ragneidur Petursdótter, Loptssonar á Stadarhóle, Ormssonar, Loptssonar hins Ríka á Modruvóllum. Ektaqvinna Páls Jónssonar á Stadarhóle var Helga, dótter Ara Logmanns, Jónssonar Biskups Arasonar; enn móder Helgu var Halldóra, dótter Þorleifs á Modruvollum i Eyafirdi, Grímssonar, Pálssonar, sonar Brands Logmanns Jónssonar.

Ektaqvinna Prófastsins Sira Torfa i Gaulveriabæ var Sigridur, dótter Halldórs Logmanns Olafssonar, og Gudrúnar, dottur Jóns Sýslumanns i Skagafiar-

gafiardar Sýſlu, Biornsſonar Officialis, Jónsſonar Biſkups Araſonar. Barnamódir Sira Biorns Jónsſonar var Steinun, dótter Jóns Magnúsſonar á Svalbardi, ſem fyrr er getid. Ektaqvinna Jóns Biornsſonar var Gudrún, dótter Arna Gíſlaſonar á Hlídarenda, hvørs ætt einnig er talin.

Móder ſál. Sýsſlumannſins Jóns Jónsſonar, enn ektaqvinna Prófaſtſins Sira Jóns i Stafhóllte, var Ragneidur Gísladótter, Jónsſonar Biſkups á Hólum, Vigfúsſonar Sýsſlumanns á Stórólfshvole, Gíslaſonar Løgmanns, Hákonarſonar Sýsſlumanns, Arnaſonar á Hlídarenda. Ektaqvinna Sýsſlumannſins Hákonar Arnaſonar var Þorbiorg, dótter Sýsſlumannſins Vigfúſar Þorſteinsſonar, Finnbogaſonar Løgmanns, Jónsſonar. Ektaqvinna Finnboga Løgmanns var Málfrídur, dótter Torfa Riddara og Hirdſtióra, Araſonar og Akra-Chriſtinar, dóttur Þorſteins Løg-



manns Olafssonar. Ektaqvinna Sýsslumannsins Vigfúsar Þorsteinssonar var Anna, dótter Ejólfs i Dal, sonar Logmannsins Einars Ejólfssonar og Húsfrú Hólmfrídar, dóttur Erlendar Erlendssonar, og Gudrídar Þorvardsdóttur, Loptssonar Ríka á Mødruvollum Riddara; enn móder Gudrídar Þorvardsdóttur var Margret, dótter Vigfúsar Holm, Hirdstióra, Ivarssonar Holm ogsvo Hirdstióra. Ektahúsfrú Gisla Logmanns Hákonarsonar var Jarþrúdur, dótter Sira Jóns Krákssonar í Gørdum á Alftanesi, hálfbródur Biskups Gudbrands á Hólum. Ektaqvinna Vigfúsar Sýsslumanns á Stórólfshvole var Katrín Erlendsdótter Sýsslumanns, Asmundarsonar Logmanns, Pálssonar á Skarde, hvors ádur er getid; átte sá Páll Solveigu, dóttur Biórns Ríka i Vatnsfirdi Hirdstióra, og Olafar dóttur Lopts Ríka á Mødruvollum. Ektaqvinna Erlends Asmundssonar á Stórólfshvole

var

var Salvor, dótter Sira Stephans i Odda, sonar Gisla Biskups i Skálhollte Jónssonar. Ektahústrú Biskupsins Mag. Jóns Vigfússonar á Hólum var Gudrídur, dótter Sira Þórdar í Hítardal, sonar Sira Jóns Gudmundssonar i Hítardal, hvors fyrr var getid. Ektaqvinna Sira Þórdar var Helga, dótter Arna Logmanns, Oddssonar Biskups i Skálhollte, Einarssonar Officialis í Eydolum. Ektaqvinna Gísla Jónssonar i Máfahlíd var Margret, dótter Magnúsar Logmanns, Jónssonar, Magnússonar, Arasonar, Magnússonar i Bæ á Raudasande (Sýsslumanna), sonar Jóns Magnússonar á Svalbarde, hvors ætt fyrr er talin.

Ektahústrú Magnúsar Jónssonar var Ragneidur, dótter Eggerts Logmanns og Riddara, sonar Hannesar Riddara og Hirdstióra, sonar Eggerts Logmanns og Riddara i Norvegi.



Ektahúſtrú Ara Magnúsſonar var Chriſtín, dótter Gudbrands Biſkups á Hólum; enn ektahúſtrú Jóns Magnúsſonar á Midhúſum var Jórunn, dótter Magnúſar Logmanns Biornsſonar og Gudrúnar, dóttur Gíſla Logmanns á Innrahólmi, ſonar Þórdar Logmanns Gudmundsſonar.

Miklu fleire hofdingia lands þeſſa mætte telia, ſem ſál. Sýsſlumadrinn Jón Jónsſon var afkominn; enn þetta er nóg til ad ſýna, ad madrinn var ſtórættadr. Eptirfylgir ad ſýna, ad hann var þar ad auki ſóme ættar ſinnar, hvad þeſſi hanns ſannferdug æfeſaga vottar.

Sál. Sýsſlumadrinn Jón Jónsſon er fæddr i þenna heim ad Stafhollte i Mýra-Sýsſlu d. 23. Januarii 1740, 3 mánudum eptir andlát ſíns ſál. fodurs Profaſtſins Sira Jóns Jónsſonar, hvors nafn honum i ſkyrninni var gefid. Med ſinne módur Ragneidi ſál. Gisladóttur fluttiſt hann ſkommu

mu þarepter úngbarn ad Svignaskarde, hvar hann var til 1748, þá þeim al-víſa og góda Gude ogſvo þóknadiſt ad kalla hana frá þeſſu tímanlega líſe til ſinnar eilifrar ſælu. Enn ſá ſem verid hafde fader Sýsſumannenum Jóni fodurlauſum frá módurlífe, hafde og fodurlega forſión fyrir honum, þá hann einnig var ordinn módurleyſíng-ur, i því ad hann uppvakte honum og gaf þá beſtu og dygdaríkuſtu fóſturfor-elldra, hanns módurbródur ſal. Amt-manninn, þá verandi Logmann Mag-nús Gíſlaſon, og ſál. Frú Þorunne Gudmundardóttur.

J þeirra húſum ólſt hann upp, og vard mentadr i ollu því, ſem ſídar átte ad vera og vard honum til sóma, enn landinu til góds gagns og upp-byggíngar. Grundvoll til Latinu lær-dóms hiá honum logdu þeir merkilegu úngdóms kennendur, Sira Gunnar Páls-ſon og Sira Gudlaugur Þorgeirſon;

hvar



hvarepter hann til frekare framfara 1756 var settr i Skálhollts Skóla under-tilsogn þá verandi Skólameistara Mag. Biarna Jónssonar, af hvorium hann var reglulega dimitteradr 1760, og sama ár reiste til Kaupenhafnar Háskóla, hvar hann epter loflega aflokid Examen var i Stúdenta tølu og stand innskrifadr. Her ecke einasta geck hann med sóma og hróse þær troppur, sem leida til hefdar og yfirvalldsstands, med þvi ad hann útstód Examen Philosophicum og Juridicum, hvarttveggia med hróse, og lika vard Artium liberalium og Philosophiæ Baccalaureus, helldur og vard vel forfarinn i mørgum ødrum lærdóms greinum, er bædi prýda hvorn og einn yfermann, og líka koma opt til bestu nota. Svo lét hann ser ei nóg, at vita løg og laga máta, jafnt þeim sem løgfródaster eru i þvi sem á Háskólanum er almennt kénnt, helldr og lagde sig eptir þeckia manneski-

neſkiuna af ſagna ſpeke, landſtiórnar reglur, og laganna uppruna og edle. Til ad æfa ſig og undirbúa, ſvo hann þvi hæfilegri yrdi til hvorrar þeirrar embættis ſtettar, ſem Gudi og Kónge-num hefdi eptirá þóknaſt hann i ad ſetia, heyrde hann Collegium Privatissimum yfir, edr lét ſér innvirduglega kenna af ſál. Juſtitz-Ráde og Profeſſor Schlegel þá adferd, ſtílsmáta og ſnille, ſem i ſerhvorium embættis ritum og erendagiordum tídkaſt, prýda og geta ad notum komid. Má af þvi marka, hvorſu ſál. Syslumadr Jón Jónsſon ſtundadi fremr enn fleſtir hanns jafnalldrar, er þá voru vid Háſkolann, þad ſem loflegt og nytſamlegt var i lærdóms ydkunum, ad þá voru einir fimm, ſem þeſſa gagnlegu ydn fyrir ſig logdu, hvorier lika aller, ad einum fráteknum, er ej vard ſvo lángra lifdaga audid, komuſt til ypparlegra embætta, og urdu merkismenn. Allteins

mætte



mætti her telia fleiri lærdóms greinir, sem sál. Sýsslumadrinn Jón Jónsson af alúd lagde sig eptir; enn vegna tí-mans naumleika vil eg einasta drepa á, ad hann ej adeins skilldi, helldr og taladi og skrifadi i Dönsku, Þydsku og Fronsku túngumálum, nærþvi eins fullkomlega, sem hvort þeirra hefdi ver-id hanns módurmál.

Þegar þarvid bætist, ad madrinn var i ollu hinn rádvandasti, sómasam-legr, trúverdugur, gódhiartadr og lemp-inn, þá er ecke ad undra, þó hann væ-ri af ollum gódum monnum elskadr og virdtr; og þad var hann bæde utan- og innanlands.

Svo sem eptir máltaksins hlióð-an: hvad elskar ser líkt, svo hafdi hann vid Háskólann þá lagsmenn og stallbrædur, sem fetudu sama feril og hann, nefnilega lærdóms og dygda veg, á hvorium þeir áunnu ser heidur og

sanna

sanna nytseme; Af þessum vil eg eink-
um nefna Stiftamtmann Thorkel Field-
sted, Conference-Ráð og Deputeradann
i Rentekammerenu Colbiornsen, og Etats-
Ráð og Deputeradann i því Danska
Cancellie Rejersen; hellduſt þeir að
kallaſt mátte i hendur i lærdóms ydku-
num, svo hann með því sinn dæme
synde, hvaða gagn það er úngum
mönnum, að adhyllaſt beſtu manna sel-
ſkap, enn láta dygdena vera vináttun-
nar grundvoll. Með þessum atburdum,
koſtgiæfne og framſerdi, var ei að un-
dra, þó þeir elldre og ædre samtída menn
hefdu líka haft góðann þocka og álit á
þessum únga manni; þaraf kom það
medal annars, að nockrir mikilshátttar
menn, sem æſktu ser að fá syne sina
mentaða og uppalda til lærdóms,
dygda og mannkoſta, meintu að þeir
giætu aungann fundið verdugre og hen-
tugre þartil enn hann, hvor þeirra von
ei helldr bráſt þeim; því hanns læri-
ſvein-

 

sveinar báru hanns kennslu gódar meniar, og urdu sídan mikilsháttar menn. Medal þeirra, sem útvoldu hann til ad menta born sin, vil eg her einasta nefna Cancellie-Ráð Ewald; enn einkum þann nafnfræga og hálærda Etats-Ráð og General Auditeur Fleischer. Þessi mikli madr, hvors æru-nafn mun lifa svo lengi sem Danmørk stendur, elskade sál. Syssllumann Jón Jónsson eins og hann hefdi verid hanns eigid barn, var tidum siálfr vid, medan hinn var ad kenna bródur-sonum hanns, og hafde yndi af ad heyra, hvorsu vel þeim únga manni fór þad verk. Eptir ad kennslu tíminn dag hvorn var á enda, tók hann hann med ser i sitt svefnherberge, skemte ser med lærdómsríku og nytsamlegu samtale vid hann, og þá hofdingsmenn, sem opt bar vid komu til General-Auditeursins; let hann þad vera sitt eptirlæte, ad hafa lærimeistara ættíngia sinna i samqvæminu med, og opinber-

lega

lega hrósa láne sínu i því, ad hafa hitt slíkann mann.

Eg hefe ordid lángordare enn mig varde um úngdóms-ár vors framlidna Sýsslumanns; enn þar þau voru grundvöllur og undirbúníngr allra þeirra dygda og nytsamlegra athafna, sem hann sídan á manns aldrinum og i embætti sinu i lióse lét, svo mátte líka af hvilíkum úngdóme vænta ypparlegs fullordins manns; hvør von einnig vard epterá yfirgnæfanlega uppfyld.

Þegar vor af rettvíse, skynseme og medlídan vid eckiur og einstædínga óforgleýmanlege Sýsslumadr i Rángárvalla-Sýsslu sál. Þorsteinn Magnússon fór ad elldast, og treyste ser ej lengr til án adstodar ad þena sinu embætte, fann hann aungann betre edur verdugre hiálparmann og eptirkomara, enn opt velnefndann Jón Jónsson. Kóngsins rádgiafar i Kaupmannahöfn þecktu þenna mann líka svo vel, ad



þeir fúslega fluttu þad mál fyrir Hanns Konúnglegu Hátign, sem á árenu 1768 allranádugast tilskickade hann ad vera adjúngeradann og succederande Sýsslumann i Rángárvalla-Sýsslu. Þessu embætte þenade hann med þeirre dygd, skýnseme, roksemd og línkind, sem oss er ollum kunnugt, og sannlega má kallast gódra Valdsmanna dæme. Sinna undirhafande leste straffade hann, svo ránglæte med siálfræde og umvendunarleyse ej skylldi fá yfirhond; enn hiálpade ollum góds maklegum til launa. Med alúd, einurd og fodurlegu hiartaþele var hann túlkur og talsmadr sinna sýsslu-inubyggiara hiá þeim ædstu yfirvolldum utanlands sem innan, svo margr naut þess ad, til ad fá nádargiafer og velgiorninga, hvorra þeir án hanns adstodar hefdu farid á mis. I logsogn sinne var hann rettdæmr, sanngiarn, og fráshneiddr því, ad vilia i nockurn máta halla rettinum; hvaraf

kom,




kom, ad hanns dómar voru af yfirdómu-
rum, og jafnvel Kóngsins hærsta rette,
þá til þess komu, stadfestir. Heradsstiórn
hanns var temprud med roksemd og
lempne, sem miog svo var medverkande
til þess, ad Rángárvalla-Sýssla, sem i
hanns tíd hafde saudfiárdauda, sífellt fiske-
leýse, og loksins þau yfir landid almennt-
gángande hardende, ad lída, hefur þó
fremur ødrum landsins portum blómgast,
og jafnvel útbreidt hiálp til annara
herada.

Þegar Hanns Kónglega Hátign sá,
ad miølkaup voru oss Islendíngum svo
dýr, þar ver ej einúngis urdum kornvø-
runa ad kaupa, helldr og líka høfdum i
nockur hundrud ár keýpt af ødrum þiód-
um ad mala hana handa oss, skipade
Hann allranádugast ad senda oss óma-
lad korn og nockrar qvarner. - I fyr-
stu urdu ej nema fáeiner Sýsslumenn til
ad hagnýta ser og sínum sýsslubúum þen-
na hagnad; medal þessara sýnde sál.



Sýsslumadr Jón Jónsson slíka alúd og kostgiæfne, ad Hanns Kónglega Majestat befalade sinu Rentukammer-Collegio ad tilkynna honum sína allra-hærstu velþóknan á þeim hanns adgiord-um; og margt annad hrósverdt þessu ej ólíkt mætte upptelia ef tíminn leýfde þad, eda ef oss ollum være ej þess fram-lidna Valldsmanns góda heradsstiorn alkunnug. Enn þar eg nú nefnde her-adsstiórn sál. Sýsslumannsins Jóns Jóns-sonar, má eg ej gleyma einu hennar atridi, sem ad sonnu er ollum oss kun-nugt, enn sem líka á skilid, ad eptir-komararner fáe um þat vitnesskiu. Sand-fiárpestin geýsade óhindrud her i lande; hún burttók þad besta biargrædismedal alls landsins, og útdreifdist meir og meir, svo eckert var vissara, enn ad sá stofn mundi med ollu tortýnast, sem ad miklu leite hafde fædt og klædt oss Islendínga; og enginn gat edr vogade ad setia skordur þar vid. Ad stemma stiga fyrir þessare

ólucku

ólucku var ómøgulegt, nema med ad ſkera nidr allt ſaudfe i viſſum ſveitum, bæde þad ſiúka, og líka þad ſem enn þá var óſiúkt. Serplægne ſumra, og annara vanvitſka, ſettu ſig móti því medale, hafande ſer til fylgis eignar-rettinn, og laganna vernd yfir honum. Løggiafarinn var þá enn eige búinn ad brúka ſina velgiørande makt til ad ſkipa, ad ſaudfed ſkyllde giørſlátraſt.

Sýsſlumennerner Þorſteinn Magnúsſon og Jón Jónsſon, eins og fedur ſinna undirgefinna, tóku ſer fyrir ad frelſa Rángárþíng, og med því hiálpudu til ad frelſa allt landid. Med jafnmikilli ſkynſeme ſem fødurlands elſku, ſtoduglynde, rettſýne og lempue, fengu þeir heilar ſveiter til ad ſkera nidr allt ſitt ſaudfe, hindrudu fárid frá ad breidaſt lengra út, og máſke, ef Gud hefde ecki i þad-ſinn ſendt þá oſs til frelſis, máſke Auſtfirdinga-fiórdúngur hefde ratad ſama tión og hinir partar landſins;

 máſke



máske heila Ísland hefdi ej átt eptir eina heilbrygda saudkind. Þessir tveir óforgleýmanlegu menn, af hvorium annar var rett nú til síns hvíldarstadar lagdr, útréttu þad forordningarlaust, sem önnur landsins yfirvölld eptirá ecke án mædu fengu komid til leidar, med því ad hafa þá bestu, mildustu, enn undir eins alvarlegustu konúnglega skipun vid ad stydiast. Svo stór Guds gáfa eru þvílík yfirvölld, sem ver nú hvad uppi samt höfum i Rángárvalla-Sýsslu haft, og æ! eg verd því vid ad bæta, höfum nýlega mist! Hvorsu stór velgiörd sem þetta var, og sannarlega er, þá var þó sál. Sýsslumadr Jón Jónsson svo lángt frá ad mikla sig þaraf, ad hann, þegar þarum var tilrædt, svarade:
"Sýn mer adra eins eptirlátsama sýsslu-
"innbyggendur, sem hefdu hlýdt sínum
"lægre yferbodurum i ad firra siálfa sig
"svo dýrmætum og ómissanlegum hlut,
"sem saudfenadr er ockur i Rángárvalla-
"Sýsslu"




"Sýsslu"? hvarmed sá sæle madr tillagde odrum enn ser þad hrós, er hann siálfr átte þó best skilid.

Arid 1769 inngeck hann hiónaband med þeirre ad dýgdum og kvennkostum margprýddu einkadóttur síns sál. formanns, nú sártsyrgiande eckiu Madame Sigrídi Þorsteinsdóttur. Þetta hiónaband blessade Gud med 3 sonum og 3 dætrum (*), sem enn lifa, syrgia missir þess elskuríkasta fodurs, og bera meniar ypparlegs uppelldis, med bestu sidprýde og atgiorfe eptir þeirra aldursmáta, hvartil vor framlidne nærst Gudi var sú hellsta og høfud-orsok. Sinnar bestu ektaqvinnu var hann svoddan medhiálp og adstod, bæde i likamlegum og and-

B 4 legum

(*) Þá voru til Þorsteinn, sidan ordinn Studiosus, Gudbrandur, Jón, Valgerdur, sidann gipt Biskupinum Doct. Hannesi Finnssyni, Margret og Ragneidur. Enn 6 vikum eptir andlát fodur sins fæddist þad siounda barnit Helga.



legum efnum, undirvíſande, ſannfæran-
di, lempinn, og i ollum hlutum ſem
Chriſtnum ektamanni ſómer. J húſ-
ſtiórninne var hann forſtandugr, og
fleſtum fremr útſedr, ſvo hanns fyrir-
tekter høfdu varla edr alldreigi annad
enn lukkulegt útfall; á heimile ſinu ſida-
vandr, enn þó med þeirre lempne og
hógværd, ad allt fólk hanns unnti hø-
num hugáſtum. J þvi ſem ollum meſt
árídur, og grundvallar, byggir og vid-
helldr allre ſannre farſæld i Chriſtindóm-
inum, ſýnde hann oflugann krapt trúar-
innar i verkunum, ſvo ſem hann líka
framyfir marga adra af hanns ſtande
var upplýſtr i Gudfrædinnar lærdome.
Þad var hanns ynde bæde ad vera
áheyrande, þegar ſkynſamlega og med
rokum var talad um vandſkildar Gud-
frædinnar greiner, og líka ad leggia
þari ord til leidréttíngar ef med þurf-
te, hvar til hann eige braſt kunnátta.
Þarámót var honum þad andſtygd ad
heyra

heyra talad um Gud edr gudlega hlu-
te med eptirtektar edur virdingarleyse.
Er þad eitt til marks um hanns elsku
á Guds orde, ad hann let ecki einúng-
is ydugléga hafa þad um hønd fyrir
sinu heimilisfólke, helldr líka ætíd
edr optast las þad siálfr fyrir því, haf-
ande athuga á, ad bæde heyrde þad
Guds ord i kirkinnne og heimahúsum,
og líka lifde eptir því. Siálfr geck hann
á undann i þessu med loslegu gudræk-
ninnar eptirdæme, svo sem upplýstur og
gódr Christiann. Þesse hanns tállausa
gudrækne hreinsade og fullkominn gior-
di allann hanns þeþnkíngarmáta, hvorn
hann jafnan audsynde ad vera þessum
reglum samqvæmann: Ess þína siálfs-
fullkomnan! gior aungum vísvitande
órett! gior gott naudstoddum og þreýng-
iande! lif ætíd sem frekast mogulegt er
eptir Guds befalíngum. Svo gódur,
svo uppbyggelegr, svo vigtugr var þessi
merkismadr, hvors æfisogu her vegna



tímans naumleika er einasta ádrepid. Enn nú er hann oss horfinn ad sýn, þó ej lengr enn um eitt augnablik, því hvad er raunar vor hervera annad enn stutt augnablik? Ver sáum hann nú lagdann i sinn hvíldarstad, til hvørs hann, ásamt Guds medverkande vilia, leidde yfirgángandi landfarsótt, enn einkum sá siúkdomur, er kallast Hemiplegia edr hálfvisnan, er yfirfell þenna vorn framlidna um nærstlidnar veturnætur. Eptir sínu sidvanalega þolgiæde bar hann siúkdóminn allann veturinn med stærstu hugprýde, hreyste og sífelldu jafnadar-gede, þó honum optsinnis slæe nidr aptr i sama veikleika, eptir ad hønum siálfum fannst, og ødrum sýndist, svo sem hønum være batnad.

I siúkdóminum forsómade hann ej ad brúka þau náttúrlegu medøl, sem Gud hefr unnt manneskiunne til tímanlegs lífs frelsis; let þessvegna til sín sækia Land-Physicum Hr. Jón Sveinsson,

son, sem til hanns kom hann 10da Maji nærstlidna. Enn svo sem enginn mannlegr kraptr má imót daudans ofbellde, svo var þessi Land-læknesins reisa eige nema máske til ad leingia lísid um fáa daga. Þó var vor nú framlidni optast á fótum, og eptir hálfs mánadar tíma, þegar læknerinn reiste tilbaka, sýndist sá siúke vera nockud stirkvare enn ádr, svo hann gat ferdast lítid eitt i nærsta bygdarlage, eptir hvoriar hræríngar hann alldreigi fann siúkdóminn þýngre, heldur léttare. Med somu kostgiæfne, sem hann ætíd hafde sýnt i ad rækia sina sóknar-kirkiu, vitiade hann hennar nærstlidinn tíunda, og aptr ellifta Sunnudag eptir Trinitatis med sterkustu sálar, enn veikustu líkamans kroptum; var hann sídan eina níu daga med sídvanalegum veikum kroptum á fótum. Þareptir gat túngan þvi nær um hálfs mánadar tíma ei talad, edr likaminn hrært

sig



sig siálfr; enn veikar bendíngar og grátande augu horfande á hanns stynjande ektamaka og veinande born var þad einasta, hvarmed hann þá gat sýnt sálarinnar tilfinning og verkaner, hvøriar hiá honum voru óhindradar med fullkominni rænu allt fram i andlátid. Skildist hann svo dag 20 Augusti næstlidens sætt og sáluhiálplega vid þetta stundlega líf, sem med æru, lucku, og til margra uppbyggíngar hafde varad i 49 ár og 7 mánudi, enn endade øllum oss til sárs saknadar, honum einum til æskileguftu umbýta.



